# Avisan
til
# Jardepla Ræktanar,
fyrir
Almúga-menn á Islandi,

frá
Hans Wilhelm Lever,
Høndlunar Faktóri.

---

Aldrei er góð vísa of opt qvedin.

---

Leirárgørdum, 1810.
Prentud á kostnad Høfundsins, af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

# Formáli.

Jeg skulda Innbúum þess lands, í hvörju eg, frá úngdæmi, hefi notid lífsuppheldis, ad tilstudla þeirra heilla, eptir megni, med gódu dæmi og velmeintum rádum. Mætti eg þá verda svo heppinn, ad þessi fáu blød, Avísan til Jardepla ræktanar, verkadu svo mikid almenna heill, sem eg óska; þad er: ad serhvörr skynsamur vildi adgæta, ad þad sem í mínum akri getur varid, mætti einnig geta varid undir sama himinbelti hjá ødrum, og þar eptir, med því ad leggja hønd á verkid, gagna ser og sínum, andsýnandi þar med, ad þeir ecki fyrirlíta mitt dæmi.

Mætti eg enn framar verda svo lánsamur, ad sjá, ad nockurra ára fresti, Jardepla ræktunina framast hjá kunníngjum mínum hjer á Nordur- og Austurlandinn, og þarvid knýast til greinilegar og náqvæmar ad kynna þeim mínar tilraunir, er eg í þessu efni hjer í landi gjört hefi, af hvörrjum blød þeßi einúngis innihalda lítid ágrip, þá væri mín ósk uppfylld.

Ad ødru leiti er eg reidubúinn til ad yfirláta þad vidþurfandi Jardepla útsád, eins og ad sýna, hvörrjum sem óskar þess, minn tilbúning, med jardhúsi og fleirum þartil heyrandi innrettingum.

Eyafjardar Kaupstad,
þann 24da Oktobris 1809.

H. W. Lever.

Avisa

## Avisanin.

1. §.

Jardepli urdu fyrst í Nordurálfunnar löndum kunnug, eptir þad Vesturálfa heimsins, edur America, var fundin. Arid 1565 færdi þræla-höndlarinn J. Hawkins en fyrstu Jardepli til Irlands, frá nýu Granada í Sudur-Ameriku, og hérumbil 20 árum seinna heimfærdi líkasvo enn nafnfrægi Frans Drake heilhóp af þessum rótna ávexti, frá Virginia til Englands. 1616 borduðust Jardepli, sem sælgæti, á Kóngsins bordum í Fránkaríki. Í flestar landsálfur Þýdska-

 lands

lands innfærduſt þau 100 árum ſeinna — og 1743 færdi þau þjódverſkur madur nockurr til Danmerkur.

2. §.

Ymſar meiníngar hafaſt um verkanir þeſſa ávaxtar á heilbrygdinni, en eg vil rádleggja ſérhverjum, ad neyta ecki Jardeplanna fyrri, enn þau eru 1 til 2gja mánada gömul; því þá er vid þau ſkilinn gángur ſá eda ígérd, er þau í ſig taka innkomin á geymſluſtadinn, og eptir þad upptekin vóru, en ferſk eda nýupptekin eru þau ecki óholl, þegar eru í hóf og ecki of opt bordud.

3. §.

Vid Jardeplanna margteknu ræktun hefir þad hendt, ad af þeim hafa framkomid ým-

iskon=

iskonar af=artir, hvorra adgreining, og þeck-ing sërhvorrar tegundar útaf fyrir sig, oss hër á Islandi ecki notar, þar enar fleſtu artir ecki gëta hër nád þeim þroska, sem í útlöndum; en einkum ber ad varaſt hin raudleitu aflaungu Jardepli, því þau eru einhver en løkuſtu.

4. §.

Ad sönnu gëfst varla nockur jardar=teg=und, í hvorri Jardepli ecki gëti vaxid og þróaſt, en reynſlan hefir þó kënnt, ad laus jörd vel sendin, gëfur meſtann ard, og vext=inum hinn þægilegaſta smeck.

5. §.

Sërhvorr, sem vill byggja Jardepla=gard, velji þartil þurrann stad, er liggi í hlë

 fyrir

fyrir út-nordan, nordan og land-nordan vindum, sem og, ef þvî verdur vidkomid, hafvindi, eda svo nefndri hafgolu, þar þid bîtanda kalda lopt af sjónum, er einkanlega vextinum skadvænt. Gardinum sé þanninn hagad, ad hann snúi mót sólunni, alla þá tíd dagsins, hennar verkana verdur adnotid. J þeim gardi, sem er 32 áln. á lengd og eins á breidd, verdur ferhyrníngur af rúmra 1000 [] (ferskeyttra) álna innihaldi, úr hvørjum, af qvartils sædi, fást kunna 4 tunnur Jardepla.

## 6. §.

Grassværdinn skal uppstínga og umgirda árinu ádur, til ad géta þvî fyrr tilreidt jørdina á næsta vori. Til girdíngarinnar notist sá uppstúngni grassværdur, og þarf gardinn ekki hærri enn 1 eda $1\frac{1}{2}$ alin, en um vetrartímann

ann mætti rida net, í líkíngu selanótar, 4 eda 5 möskva breidt, af ullar-úrgángi og togi, er þanid sé yfir gardinn á þartil í hann rekna uppstandara, af paßlegri hæd, hvörjir ásamt netinu skulu útávid slútandi vera, til ad varna peníngi þar inngaungu. Ad lidnum Sumarmálum (seinast í Apríl og fyrst í Maji) ber sérhvörjum, er Jardepli vill rækta, ad umróta jördunni, og þad jafnvel undireins og þýdt er 4 eda 5 þuml. djúpt, til þess klakinn þydni því fyrr, sem annars í jördunni vidvarir fram á Jónsmessu, og á stundum lengur.

## 7. §.

Eptir því sem vorid er hlýtt til, verdur útsáds-tíminn, mánud til 5 vikur af sumri; jördin sé nægilega upp-pæld, 8 til 10 þuml. í þid minnsta, vel barin og fínt mulin. Utlits

og hægdar vegna afmarkast Reitir eda Bed, $1\frac{1}{2}$ alin á breidd, — lengdin eptir velþóckn=un — hvarí gjørvar séu holur qvartils djúpar med hálfrar álnar millibili, þannig: ad 3 hol=ur komi í breidd reitsins, er sin á milli myndi þríhyrning, állka og siffrur þessar:



Þar eptir er tekinn spadi af brossatadi (því í hefir brotist), sem er besta tedsla til garda, og skal med því holurnar hérumbil hálffylla, þar á ofan leggist Jardeplid, med litlu af þurri moldu undir, byrgist sídan med þeirri upp=grefnu mold, en adgæta samt, ad Jardeplid liggi ecki dýpra enn hérum 4 þuml. eda fing=

urs

urhæd frá yfirbordi reitsins, því annars tím-
gast þad offeint.

8. §.

Þegar grasid er varid 4 þuml. hátt, og
leggurinn eda stofninn fer ad myndast, skal
sópa moldu upp ad stofnunum, svo ad hrúga
verdi; flýtir þad bædi frjófguninni og líka
verndar plentuna í hvassvidri. Þessu verki
er framhaldid fram í midjann Augúst, eptir
því sem vidþarf, uns moldin nær 10 eda 12
þuml. uppeptir legginum, frá módurinni ad
reikna. Børn og únglingar gêta hæglega leyst
verk þetta af hendi, þegar þeim er kénnd ad-
ferdin. Ad ødru leiti skal vernda reitina fyr-
ir allra ferfættra dýra tradki, en vøtnunar
þarf ecki vid.

9. §.

9. §.

Heil Jardepli, hérum 1 lód ad vigt, eru, einnig í tilliti til matar-drýginda, hentugust til útsádsins; því þótt Jardepli af 8ta lóda þýngd séu nidursett, færa þau ecki meiri ávøxt enn 2 af 1 lóds vigt. Hin stærri má líka brúka þegar þau eru klofin, einúngis verdur ad gæta þess, ad eckert auga skaddist. Vidra skal styckin nockra daga, ádur sett eru, ad sárid nái skéljast, og fræsid ecki fúni í jørdunni, sem annars er hætt vid. Sídur enn ecki skyldi sparnad vidhafa í útsædinu, því þareptir plagar uppskéran ad fara; eg ræd þessvegna til ørlætis, ef skortur ecki bannar.

10. §.

Ein ønnur adferd vid plantun Jardeplanna, er á vissann hátt ardmeiri hér í landi; hún

hún fer þannig fram: þad umtalada gërdisland er kappsamlega mykiborid med hesta,- kúa- og sauda-tadi, sem qvartils þyckt breidist yfir, umrótast sídan, svo þad vel samblandist moldinni, afmarkist, sem ádur segir, í reiti, og nú gjørast holurnar med staut, og med qvartils millibili, í þær eru Jardeplin lögd 3 þuml. djúpt*). Þegar grasid er varid qvartils hátt, er mold borin ad stofnum, skal hún vælast upp úr gøtunnum milli reitanna, berjast ofurvel og þjappast med hægd ad pløntunum allt í kring.

*) Prestarinn Hra. J. K. Trojel hefir fyrilagt, ad eckert minna enn álnar bil mætti vera millum hvørrar holu, og djúpt þeirra 4 eda 5 þumlúngar. Sjá hans Agrip um Jardeplanna Nytsemd og Ræktan, Bls. 10. Kaupmannah. 1772.

kríng. Á þenna hátt vinnst með betri notum jarðarinnar 2faldur ágóði; en ecki þarf hans að vænta án duganlegs áburðar, eins og eg áður sagt hefi.

11. §.

Hér á landi kémur ecki Jarðepla ræktan að notum, bæði vegna ens stutta sumartíma, og líka svo sékum jarðarinnar megurðar, nema með góðum og nógum áburði; þau tímgast vel við allskonar mykju; engu að síður vil eg minnast á áburðar tegundir þær, er best ega við Jarðeplin, og er þá:

1.) Hrossatað hinn ypparlegasti áburður, einkum vegna þess, það er svo laust, að plantanna sínu rætur ná strax að læsa sig úti það, og draga til sín næringuna,

líka

líka og, ad þad af sömu orsök tekur á móti varmanum eins fljótt og moldin; þad samanlímir aldrei jørdina, eins og kúa-mykjan, og ecki heldur gjørir þad hana eins feita og þeßi.

2.) Kúamykja er, næst hroßatadinu, brúk-anleg, þegar hún er gømul og vel út-brunnin, brúkast einkum í skorti hins; en vilji nockurr gjøra jørdina mjøg svo feita, undir kál, rætur og næpur, er hún yfirtaks góð. Þá gardjørd, sem med þvílíkum feitum áburdi er vel í rækt komin, kalla Danir Damjord, og er hún hin fyrsta jardar-tegund, sem á vorin verdur klakafrí, þeßvegna hentust þeim, er af áburdi þeßum nægtir hafa.

3.) Sanda-

3.) Saudatad er mikid gott, einkum á sendna jørd, en þad útheimtir mikla fyrirhøfn, og er óvída til afløgu vid gardyrkjuna, eda í teluverdri mergd.

4.) Auk þessa má brúka fyrir áburd á Jardepla garda, allt þad skarn fást kann, þáng og þøfumlikt, ad hausti áborid. Því meiri umhyggju sem varid er fyrir áburdinum, og því betur hann samblandast moldinni, þeß meiri frjófsemi meddeilist jørdunni, og því ríkuglegar launast erfidid.

Séu Jardepli pløntud í jørd þeirri, er eg No. 2 umgat, á þann fyrrtjeda hátt, med hreßatadi undir hvørri pløntu, bera þau 24 til 40-faldann ávøxt; en þá skal jørdin sífeldt eptir regn losast umhverfis hvørja pløntu,

undir

undir eins og hreykingin, eda adsópun moldarinnar ad stofnunnum, er gjør; er þá hægast ad stinga spadanum nidur med pløntunum, svo djúpt og lempilega, sem þarf, til ad lypta øllu kérfinu upp.

12. §.

Undir Septembers mánadar útgaungu, eda fyrst í Októbér, þad er ad lidinni Mikáels-messu, er upptøku tíminn. Þad verk fer best fram á þenna hátt: spadanum skal stinga þanninn nidur med hlid plantanna, ad eckert ærli skaddist — því þau eru allt um kríng stofnana — þegar þeim er uppvellt; þau thynast þá af, berast í vindsvalt hús og breidast þar

út, til ad þurka þeirra útvortis sagga, hvar til eins dags þurrt og blídt vedur er nægilegt. Vilji svo til, ad spilling vedráttunnar, snjór eda frost, innfalli, þegar verk þetta er áformad, er rádlegra ad bída þar med betra vedurlags. Frostid fordjarfar annars Jardeplin gjørsamlega, og rotna þau strax, sem þau aptur þydna.

13. §.

Til þess ad gjøra sig óhultann í tilliti til útsædis ad nærsta vori, skal um Krossmessu leiti á haust upptaka svo mikil Jardepli, sem nægilegt virdist til útsádsins; þurka

þurka skal þau vel, og ad því búnu leggja þau nidur í kassa, qvartil eda annad þurrt ílát, med þurrum sandi eda mold, grafa svo holu í jørd, úti eda inni, hvar eckert vatn adsýgur, svo vída og djúpa, sem þarf fyrir Jardepla ílátid, er þar skal nidursetjast, og holan aptur fyllast med þeirri uppgrefnu mold. Þannig nidursett, svo lángt sem vonlegt er ad frostid ecki nái, munu Jardeplin kunna ad geymast óskêmmd til næsta vors, er á þeim þarf ad halda; en upp skal þau taka nockrum døgum ádur enn þeim er útsád, líka skal vidra þau sem klosin eru, eins og fyrirlagt er í 9da §.



14. §.

14. §.

Þau sem sídar upptakast, geymast sömuleidis í þurrum sandi frá ám, er sjór ecki uppí sellur, eda þá í þurri mold, er tekin sè á sumri í þurru vedri, úr móum edur moldböckum, og setjist í badstofu-horn, hvar frost ecki nåir ad granda þeim, og ecki heldur ofmikill ilur ad þeim komist, svo þau fái ecki skotid aungum; því vid þad kémur gångur í eplin ad nýu, og verda þá midur holl til fædis.

15. §.

Matreidsla þessa ávaxtar er margvísleg, svo sem: sodin, annadhvert í saltblend-

nu-

nu= eda sjó=vatni, edur einsömlu ferſku vatni; börkurinn eda himnan afplockaſt, en aldinid bordaſt, annadhvört med ſallti eda ſalltlauſt, med brœddu ſmjöri, ellegar og ſtappad í mjólk, ſtundum oldúngis ad mauki eda graut; líka og ſteikt í ſmjöri á pönnu eda í potti, ellegar ſteikt í eyſu; ſodid í ſúpu, lagt nidur í ſúrmat, og á hvörn helſt hátt ſérhvörn lyſtir ad matbúa þad*). Hve

B 3 margs=

*) Adurnefndur Hra. Trojel Preſtur, hrósar mi-id Jardeplunum, ſem einka hæfum til braud-gjördar áſamt rúgmjöli; kjennir hann adferd-ina þanninn: „ Madur þvær eplin fyrſt vel í vatni,

margskonar breytíngar matreidslu vísindin uppá hitta, vid tilreidslu þessarar ljúffengu fædu, er kunnugra enn frá þurfi ad segja.

16. §.

„vatni, og sjódur þau svo í potti uns þau verda „meyr, hellir seydinu af, en hrærir í med þvöru „eda kreystir sundur med hendinni medan seyd-„id er volgt, þángad til allt er ordid ad mauki. „1 kútur rúgmjøls er nógur í $1\frac{1}{2}$ eda 2 kúta „af eplum. Fjórdapart mjølsins skal hnoda „saman vid eplin strax um qvøldid, og láta „vøkvann ráda sjálfann, sem í eplunum er, en „hella engu vatni í mjølid. Súrdeig og gjer „sem í er látid, má ecki heldur vera eins mikid „og í ødru braudi. Mjølid, sem geymt var „frá

16. §.

Audkénnid, sem Danir hafa til ad vita nær Jardepli séu fullþroskud, er, þegar grasid visnar, sem upp af þeim sprettur; en hér á landi er þetta ecki áreidanlegt; þvi opt og tídum ber þad til, ad Jardeplagrasid visnar hér á midju sumri; veldur



„frá qvøldinu ádur, skal taka morguninn eptir, „og hnoda saman vid hid ámiunsta deig, baka „sídan eins og annad braud." (Sjá Agrip sins bls. 21.) Hann segir og, bls. 25: ad úr 2 tunnum jardepla verdi eins mikid braud og 1 tunnu mjøls; stundum þvi Jardepla ræktunjna af alebli!

því næturfrost, og máské sterkur sólskins hiti þará ofan á stundum, hafi frostið annars ecki verið svo hardt, að plantan sjálf hafi frosið. Uppskérutíminn verdur hér hinn hæfilegasti, þegar vetrar vedráttan fer að sýna sig, því þá hættir náttúran að láta frekari aðstoð í tje, til vaxtarins fullkomnunar.

17. §.

Frostið er Jardepla-ræktunarinnar mesti mótstandari, og það áfækir oss tídast; það er þessvegna mikilvægt atridi fyrir sérhvern þann, er fyrir sig og sína vill uppskéra not og gagnsmuni af Jardepla abla sínum, að

hafa

hafa svo búid í hag fyrir sig, ad hann egi óhultan geymslustad fyrir epli sín um vetr-artímann, hvar þau ecki nái ad skémmast, — því opt er ecki minna verdt ad gjæta fengins fjár enn abla þess — en sé þó svo haganlega fyrikomid, ad ætld megi til þeirra ná til matreidslu þegar vill, hvern vidkomendur ættu ad leggja stund á ad til-búa sér, þegar þeir sjá ydni sína og kost-gæfni launada, ad því leiti væntast kann, undir vorn kalda himinbelti. Þad er því rádlegast, ad velja eitthvert innanbæar-hús, med þéttu og gódu þaki — því leka má

þad ecki — og sem hafi hús umhverfis, svo þad standi í hlé fyrir enum skørpu vetrar frostvindum. Í þessu húsi skal jardhús gjørast, svo vídt og djúpt, sem hæfa þykir, umhverfis skal þad hladast eda gyldast upp med þurru torfi og grjóti, en stórgérdri møl skal jafnad um gólfid, og, vegna rakans, þakin vel þurru roftorfi. Yfir jardhúsid sé rept med bálkum og fjalastúfum, þará ofan leggist rifhris eda afqvisti, þekist svo med þurru torfi, en þurri mold skal allraseinast mokad ofaná, svo þyckt, ad frostid ecki þreyngi þar ígégnum. Í einhverju hornanna á jardhúsinu sé op til nidur-

nidurgaungu í þad, og hlemmi komid þar fyrir. Þad er litilfiörlegt rúm, sem tekur 10 tunnur Jardepla, og munu færri af bændum — því midur! — meira abla, mundi því allur jardhúss þessa uppákostnadur varla edur ecki yfirstiga 2 rdli. Á sumrin ætti yfirreptingin ad takast af, vidirnir þurkast og jardhúsid vidrast, med því ad opna vindaugu á siálfu húsinu, og hafa vídaun opinu glugga á þakinu. Þeim, er meiri Jardepla abla hefdu, enn þeir hæglega á þenna hátt fengju vardveitt, væri máske hentugra ad byggja jardhúsid utanbæar; en af því þad kostar

meiri

meiri fyrirhøfn og erfidis-muni, þá er þeim einum partil ad ráda, sem hafa bædi efni og krapta til ad koma því í verk. En víst er þad, ad Jardeplin, þegar um þau er búid á fyrrtjedann hátt, þurfa eldúngis ecki ad skémmast af frosti vetrarlángt*).

18. §.

*) Jardepla blød sørud saman vid tóbak, brúka Svíar fyrir píputóbak, og hrósa því mikid; blødin plockast á haustin, þegar þau eru ordin gul, en sen þá nockur af þeim græn, eru þau pressud saman svo þau hitni og gulni. Blødin saxast saman vid tóbak ad helmíngi, og verdur samsax þetta sæmilega gott og þægilegt; betra er ad deigja þetta tóbak med vatni því, sem

18. §.

Ad lyktum vil eg rádleggja sérhvörjum, er akuryrkju stundar, ad halda gardi sínum hreinum frá arfa og ödru illgresi, og ad leggja alla alúd á, ad hann sé í öllu tilliti vel og þrifalega umgenginn, svo bædi adkomandi og heimafólki gèfi á ad líta, egandanum til sann-

rar

tóbak var í sodid, ellegar sveskjur, einiber eda byrkiborkur (sjá Björns Prófasts Halldórss. Grasnytjar, bls. 112). Engu lakari væru blöd þessi samanvid neftóbak, enn arfa- kola- og tödu-aska, flotholt, fúaspítur og þvílíkur óþverri, er tóbaks-eklan kemur mörgum til ad brúka, máskje sinni dýrmætu heilsu til spillirs.

rar vyrdíngar og æru, auk þeirra nota, er hann uppsker fyrir kostgæfni sína og ervidi. Þarámóti er trassaleg umgengni, arfi og ógras í aldingørdum ljóst merki egandans hyrduleysis, leti og óþrifnadar, hvørjir lestir optast hafa í før med sér vanvyrdu, armód og skort.

Viljinn, sú mikla driffjødur allra vorra athafna, verkar ítrekada kostgæfni og atorkusemi, sem sigrar þær óblídu hindranir, er náttúran á stundum leggur í veginn.



Nár=

## Yfirſkodan Greinanna.

